Þess íslendska evangeliska Smábóka-Félags rit No. 50. b.

## Hvörnig þetta Líf sé, og eigi að vera.

Líf manneskjunnar hér í lífi er líkt Siglíngu. Þessvegna eins og Sigling sú er óhultust, sem skédur á gódu Skipi, undir forsjálum Stýrimanni, med ötulum og hlýdnum ásetum, svo verdur líf þess mans ad lyktum farsælast, sem framfer í sönnum Christindómi, undir Stjórn heil. Anda, hvörjum Skynsemi mans, vilji og tilhneigíngar hlýdugar eru. Þar fyrir ef þú, o madur! nú villt sæluhöfn eylífs lífs á landi lifandi manna, þá hlýtur Christindómur þinn endiliga ad vera sannur og ófalsadur; hvad hann ecki er, nema þú yfir allt fram fylgir ljósi og leidsögn heil. Anda, og ad þú látir hann, svo sem einni sannchristinni og endurfæddri manneskju byrjar:

1) Upplýsa þína Skynsemi, svo ad hún hafi Jesú Christi Lifnad og lærdóm einasta fyrir sitt augnamid, og skilji og trúi hvörsu þú, án hans dýru fridþægíngar, ert virkiliga fordæmíngarinnar barn; en gétur annars, ef þú á hann trúir og hlýdir honum, ordid erfíngi þess eylífa Lífs.

2) Skal heil. Andi helga vilja þinn, svo hann framast ollu hneigist til þess himneska og verdi Guds vilja undirgéfinn; já ad þad verdi þinn vilji ad gjöra Guds vilja í ollum hlutum, leyndt sem ljóst.

3) Skal hann stjórna þínum tilhneigíngum svo þær verdi Gudi og skynseminni hlýdugar og undirgéfnar, og fái aldrei, ad þér vísvitanda, yfirhond móti heil. Anda logmáli, hvorki því náttúrliga né opinberada. Til dæmis ad taka:

a) skal Elskan — sú ypparsta tilhneigíng — hafa sitt fastasta augnamid á Guds nád í Jesú Christo; já sjálfur Jesús skal af henni med sínu réttlæti, blódi, dauda og forþénustu hjartanliga umfadmast; svo ad hennar girnd og eptirlángan stefni allra helst til þess ad hlýda honum og eptirfylgja, badi í medlæti og mótlæti, og þad allt til daudans.

b) Tilhneigíng vidbjóds og leida skal einnig stjórnast af helgadri Skynsemi, svoleidis: ad madur hafi ama og leida á ollu því, sem Gudi er móti, einkum á sinni eigin spilltu náttúru; svo hann fordist og flýi Syndina sem adra drepsótt, já allt tækifæri til hennar, einkum heimsins barna hneigslanligan Selskap.

c) Gledinnar tilhneigíng skal og ecki sídur af heil. anda stjórnast, svo hún hvörki stefni í

adra átt, né gángi útyfir þaug takmærk, sem Guds ord og Skynsemin henni sett hafa. Þá sönnu gledi í Gudi skal madur þó umfram allt ástunda ad ödlast, hvor heilögust og hreinust er; nær hún qviknar af Umþeinkíngu Guds kjærleika í Jésú Christo til mannanna, svo manni verdur allt þad gledi- og yndis-ligt, sem til fridþægíngar lærdómsins lítur; líka svo gledur madur sig yfir ödrum Guds gáfum, en gjætir þó jafnan þess, ad snúa gledinnar tilfinníngu yfir gáfunni sjálfri, til gjafarans kjærleika, med þacklæti.

d) En svo sem Gledin, svo skal og Sorgin eingu sídur af heil. Anda helgast. Þad frekasta hrigdar efni mans skal því vera, út af syndum hans Gudi móti, og einginn líkamligur skadi edur minkun skal mann svo sárt taka, sem sá er hann bakar sér med syndum sínum. Ad sönnu er sorg þessi einna beiskust í hinni fyrstu ydrun, en hún varir þó alltid ad nockru leiti vid, sökum þess ad manneskjan er undir syndina seld, svo gledin yfir Guds nád og Sorgin yfir Syndinni móti Gudi, verda því, opt og tídum, samfara, edur skiptast um á víxl.

Næred nú allar tilhneigíngar í manninum eru þannig undirlagdar stjórn Guds anda og helgadrar skynsemi, þá geingur framför mannsins til eylífs lífs mikid luckuliga, rétt eins og þegar

Skip siglir í gódum byri, undir besta Stjórnarhaldi.

Og þó útvortis mótlætinga hreggvidur yfirdynji í bland, samt er øllu óhætt, svo leingi sem heil andi stjórnar hjartanu; já svo leingi sem Sálin brúkar sømu adferd, sem lærisveinarnir fordum í Sjáfarháskanum, nefniliga: ad bidja Jesúm hjartanliga um hjálp; því þá mun hann, sem fyrri, skjótliga á fætur rísa, og med sínu nádar ordi stilla bædi Storm og Sjó. Þessvegna má Bænina aldrei bresta á sjóreisu þessari; því svo leingi hún er heit og ydulig, er øllu óhætt hvørsu óvænliga sem áhorfast sýnist. Guds ord, hvert ad er svo sem raust vors himneska Stýrimans til sálna vorra, hlýtur og svo med allri gaumgæfni ad heyrast og yfirvegast; og Jesú blessad holds og blóds Sacramenti, svo sem hid kroptugasta endurnæringar medal þreyttra og þúngaþjádra Jesú Skipverja, verdur og svo med allri Andagt ydugliga ad brúkast.

Þó ad nú loksins daudans brimgardur bresti ad voru Christindóms skipi, þegar allt er svoleidis áligkomid sem sagt er, þá getur hann alls ekkert grandad; heldur færir hann oss og flytur, þad sídarsta skréf inná óskahøfn Guds útvaldra, hvar ed landtakan verdur full óseiganligrar gledi og fagnadar.

Unni oss þessa gódur Gud í Jesú nafni! Amen.